# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. ÁRG. WINNIPEG, JANÚAR 1902. NR. 11.


## Vestr að Kyrrahafi.

Eftir séra BJÖRN B. JÓNSSON.

### II.

„Go west, young man!"—HORACE GREELEY.

Þar hætti eg áðr ferðasögu minni, er eg aftr var kominn út úr Yellowstone Park. Það var að kvöldi, að eg steig upp í járnbrautarvagninn í Cinnabar, og bjóst eg tafarlaust til hvílu í svefnstofunni. Um nóttina var vagninn fœrðr norðr til Livingstone og settr snemma um morguninn í Kyrrahafslestina að austan. Langt fram á dag svaf eg, og dreymdi mig um dýrðina í Yellowstone Park, en þó komst eg á flakk áðr en komið var til Helena, höfuðstaðarins í Montana. Það er mjög snotr borg og þinghúsi ríkisins þar viðbrugðið fyrir fegrðar sakir. Skömmu eftir að farið er frá Helena er farið að klifra upp Klettafjöllin. Frá barnœsku hafði eg lesið í landafrœðinni um þennan stórkostlega fjallahrygg, og hló mér nú hugr við að fá að sjá hann, svo risavaxinn sem eg hafði hugsað mér hann. Eg skildi því um stund við þá tvo kunningja mína, sem með mér höfðu farið að heiman og reynzt mér skemmtilegustu samferðamenn. Það voru þeir Rudyard Kipling og Eugene Field. Eg kaus þá tvo saman mér til fylgdar vegna þess, hve ólíkir hvor öðrum þeir eru. Frumleiki Kiplings örvar, en innilegleiki Fields friðar mann, svo

naumast getr maðr verið í svo hvimleiðu skapi, að annarhvor þeirra ekki eigi við mann. En á leiðinni yfir fjöllin má maðr ekki vera að lesa; þá þarf maðr allt af að vera að horfa. Maðr verðr annars ekki eins mikið var við það, þegar farið er yfir fjöllin, eins og maðr fyrirfram ímyndar sér, vegna þess að maðr er stöðugt að smá-hækka og er eiginlega kominn feikna-hátt áðr en mjög mikið fer að bera á fjöllunum. Býsna svipmikil er þó ferðin efst á fjöllunum. Lestin lfðr þá í bugðum og lykkjum eftir skorum og sprungum og kring um hnúkana, og er því útsýnið allt af fremr lítið. Sumsstaðar hefir orðið að sprengja göng í gegn um hamrana, og eru sum þeirra nokkrar mílur á lengd. þegar vestr fyrir Klettafjöllin er komið, ferðast maðr heilt dœgr eftir dölunum milli hinna tveggja miklu fjallgarða. þá taka við Cascade-fjöllin, og eru þau bæði hærri og brattari en Klettafjöllin og förin yfir þau miklu glæfralegri. þegar komið er ofan úr hlíðum fjallanna, tekr við Kyrrahafs-ströndin og svo hafið sjálft.

þegar maðr ferðast um ný ríki eða lönd, er áríðanda að kynnast vel sögu þeirra staða, sem leiðin liggr um, svo maðr hafi fullkomið gagn af ferðalaginu. Hvert ríki hefir sína sérstöku sögu og söguhetjur. Ríkin þrjú þarna norðvestast í Bandaríkjunum, Idaho, Washington og Oregon, eiga öll upprunalega sömu sögu, því framan af voru þau öll sameinuð, og hét þá allt það stóra flæmi vestan Klettafjallanna einu nafni *Oregon Territory*. Og það var fyrir tilviljun eina, að Bandaríkin ekki misstu allt það land algjörlega. það var einungis fyrir óviðjafnanlegt þrek og áræði kristins trúboða eins, að öllu því auðuga landi var ekki kastað burt.

það var einu sinni snemma á nítjándu öldinni, að hvítr veiðimaðr nokkur, sem ráfað hafði vestr fyrir fjöllin, fékk gisting hjá Indíönum, er þar bjuggu í dal einum. Áðr en veiðimaðrinn lagðist fyrir um kvöldið tók hann biblíuna upp úr brjóstvasa sínum, las kafla úr henni upphátt og baðst svo fyrir í heyranda hljóði. Indíönum fannst mikið til um bœnagjörð þessa og vildu þeir fá að frœðast meira um ,,bók hvíta mannsins''. Veiðimaðrinn skýrði þeim frá guðlegum uppruna bókarinnar og tilgangi guðs með því að gefa mönnunum hana.

Síðar barst fregnin um hina undarlegu bók út meðal alls þjóðflokksins, sem bjó í dalnum, og vakti hina mestu eftirtekt hjá hinum fáfróðu, en barnslegu Indíönum. þetta varð til þess, að sendir voru fjórir höfðingjar úr þessum byggðum Indíana austr í byggðir hvítra manna. þeir ferðuðust alla leið til St. Louis og gengu þar fyrir Clark hershöfðingja og báðu hann í nafni þjóðflokks síns um ljósið til að lýsa sér til góða landsins. þetta var árið 1832. það var tekið vel á móti Indíana-höfðingjunum og þeir haldnir í góðu yfirlæti í St. Louis, en ekkert skeytt um að svala sálarþorsta þeirra. Tveir Indíanarnir dóu í St. Louis, en hinir tveir héldu eftir all-langa dvöl heim aftr í óbyggðirnar. Við burtför þeirra talaði annar Indíaninn, sem var ungr maðr, svo alvarleg og átakanleg orð inni á skrifstofu Clarks herforingja, að einn skrifari hershöfðingjans komst við og ritaði litlu síðar bréf til fólks síns austr í Pittsburg og sagði frá þessum viðburði. Bréfið komst á prent, og kveinstafir Cayuse Indíananna vestan við Klettafjöllin bárust þannig til eyrna læknis eins í ríkinu New York. Hann hét Marcus Whitman. Rödd drottins talaði til þessa manns, og 4. Júlí 1836 lagði hann á stað vestr til rauðu mannanna til að kenna þeim að þekkja sannan guð og frelsarann. Ferð hans var bæði löng og hættuleg. Loks auðnaðist honum þó að komast vestr í Columbía-árdalinn, og settist hann þar að ásamt konu sinni og þremr vinum, sem með honum höfðu komið. Skömmu síðar skildu þó vinir hans við hann og héldu lengra og settust að meðal Nez Perces Indíananna. Með eigin höndum reisti dr. Whitman dálítið skólahús og þrjú íbúðarhús. Hann tók þegar að kenna og lækna, og Indíanar söfnuðust að honum, svo dálítið þorp myndaðist á þessum trúboðsstöðvum hans; það heitir Waiilatpu. Á þeim dögum þekktu engir hvítir menn Oregon Territory aðrir en verzlunarmenn Hudsonflóa-félagsins, og stjórnendr Bandaríkjanna álitu land það ónýta eyðimörk. Garprinn mikli Daniel Webster sagði í öldungadeild þingsins árið 1825, að hann vildi ekki láta verja einum eyri til að kanna það ónýta land. Á sömu skoðan voru aðrir stjórnmálamenn, og einn þingmaðr komst svo að orði, að guð almáttugr hefði sett Klettafjöllin til að vera

landamerki Bandaríkjanna að vestan. En svo var það eitt sinn, þegar dr. Marcus Whitman hafði farið óvanalega langt norðr með Columbia-ánni til að vitja sjúklings, að hann komst að því, að Englendingar voru á laun farnir að flytja að norðan inn í Columbia-dalinn í þeim tilgangi að ná í landið handa Bretum. Hann steig þegar á bak hesti sínum, er hann varð var við brögð Bretans, og reið allt sem af tók heim á trúboðsstöðvarnar, kallar saman hyski sitt og tjáir því þá fyriræetlan sína að halda tafarlaust til Washington-borgar. Þetta var um vetr og naumast var að búast við öðru en opnum dauða í þeirri för. Hann lagði á stað með fjölskyldu sína og tvo Indíana sér til fylgdar. Hann brauzt yfir fjöll og firrnindi, gjár og gljúfr, synti ár og lœki og létti eigi ferð sinni fyrr en hann loks komst til mannabyggða alla leið suðaustr í Bents Fort við Arkansas-ána. Þar skildi hann fólk sitt eftir, en hélt einn ferðinni áfram, og eftir nokkrar vikur náði hann til höfuðstaðar landsins. Sagt er, að hann hafi þá litið út sem útilegumaðr, eftir að hann hafði búið einn í sjö ár innan um Indíana vestr í óbyggðum. Hann gekk fyrst fyrir Daniel Webster, er þá var innanríkisráðgjafi og talaði fyrir honum máli Oregonlandsins. En Webster var einmitt þá að semja við Bretlandsstjórn um að selja henni allt landið vestan við fjöllin, Oregon Territory, fyrir fiskveiðastöðvar. Hann vildi því ekki hlusta á sögu dr. Whitmans. Trúboðinn lét þó ekki hugfallast, heldr gekk fyrir sjálfan Bandaríkjaforsetann, hr. Tyler. Forsetinn tók honum vel, sagði, að vel gæti svo verið, að saga hans væri sönn, en eigi að síðr hlyti hann að sjá það sjálfr, að þetta land væri Bandaríkjunum ónýtt, því ómögulegt væri að komast þangað að austan. ,,Þér vitið það, dr. Whitman", sagði Tyler, ,,að þess er enginn kostr að koma vögnum yfir Klettafjöllin." ,,Herra forseti!" svaraði Whitman, ,,eg hefi sjálfr komið vagni yfir Klettafjöllin; það gjörði eg fyrir sjö árum; hann er vestr í Waiilatpu enn." Með þessum orðum sigraði Whitman forsetann, og af því leiddi það, að ekkert varð af sölunni á landinu vestan við fjöllin; Washington, Idaho og Oregon urðu Bandaríkjafylki, og samið var við stjórnina brezku um landamerkjalínuna að norðan. Áðr en

vika var liðin frá því Whitman stóð frammi fyrir forsetanum og sannfœrði hann um verðmæti vestrlandsins, var fólk lagt á stað á 200 vögnum til að brjótast vestr yfir fjöll og byggja hið frjósama land.—Fjórar mílur frá bœnum Walla-Walla í suðaustrhluta Washington-ríkis er leiði Whitmans, trúboðans hugprúða og þjóðholla. Þar hefir honum verið reistr minnisvarði, og er hann talinn hafa verið ágætastr allra landnámsmanna vestrríkjanna.

Það, sem mest vekr undrun manns, þegar komið er vestr á Kyrrahafsströndina, er vöxtr borganna þar, sem þotið hafa upp á fáum árum. Borgirnar Seattle og Tacoma við Puget Sound eru jarteikn hinna stórstígu framfara þar vestr frá. Seattle er nú í mesta uppgangi og er orðin ein mesta verzlunarborg landsins. Gull-landið í Alaska og viðskiftin við Kína og Japan eiga góðan þátt í uppgangi borgarinnar. Miklu er minni verzlun og fjör í Tacoma, en það er aftr miklu siðlegri bœr. Lífið á ströndinni er ungt og ótamið enn. Siðferðisspilling er þar mikil í borgum og bœjum, sem eðlilegt er, því þangað safnast menn úr öllum áttum og dvelja þar um stundar sakir: námamenn, skógarhöggsmenn, fiskimenn, siglingamenn og allskonar æfintýramenn. Drykkjuskapr er voðalega mikill í öllum borgunum vestr frá. En við það þarf enginn að kippa sér upp. Það er nú sama sagan allsstaðar. Ofdrykkjan er hið viðbjóðslega ýldu-sár á þjóðlíkamanum, hvar sem maðr fer um landið. En hvergi er víst annað átumein eins illt eins og vestr á ströndinni. Það er spilamennska—*gambling*. Maðr getr naumast vikið sér svo við, að þessi svívirðing verði ekki fyrir manni. Á járnbrautarlestunum, á skipunum, í hótelunum—allsstaðar—er verið að spila um peninga. Bœirnir eru fullir af allskonar spilahúsum, og þar eyðir fjöldi af aumingja erviðismönnunum öllu, sem þeir innvinna sér, auk þess sem allskonar svívirðingar og glœpir eru skilamennskunni samfara eigi síðr en drykkjuskapnum. En þessi hætta er ekki að eins þarna vestr frá og í nýbyggðum. Hún er nærri allsstaðar. Skyldi kristnir foreldrar meðal fólks vors hafa gjört sér grein fyrir því, að þessi skelfilega hætta getr vofað yfir unglingunum? Það þarf að kenna hverju ungmenni að forð-

ast þessa hættu, og þá má ekki heldur líða í kristnu mannfélagi ýmislegt það, sem leiðir til hættuspila. Mannleg náttúra er rík af tilhneiging til að freista hamingjunnar, kasta teningum á einn eða annan hátt um alla hluti. Aumt er að vita til þess, að oft er einmitt slegið á þá strengi, þegar verið er að hafa fé út úr fólki á opinberum samkomum, þó það sé þá venjulega gjört undir einhverju fallegu yfirskini.

Eg fór dálítið víða um vestr frá. Norðr frá Seattle fór eg rúmar hundrað mílur. Líka skrapp eg snöggvast sjóleiðis til Bremmerton. Þar er herskipakví sjóflota Bandaríkjanna. Voru þar þá auk smærri skipa úr flotanum stödd tvö stór herskip. Var annað þeirra hin fræga „Oregon", sem ferðaðist 8,000 mílur til að komast í sjóorrustuna miklu við Santiago 3. Júlí 1898 og átti með „Brooklyn" beztan þátt í að yfirbuga spánska flotann. Hitt var herskipið „Wisconsin" og er það eitt af þremr stœrstu og nýjustu skipum flotans. Eg skoðaði skipin í krók og kring, utan ag innan, og þótti mér voðalegt að sjá hin ógurlegu morðtól, er þau voru útbúin með; og þótt eg fyndi til ánœgju yfir þessum fögru og ósigrandi bryndrekum lands míns, gat eg þó ekki að því gjört, að mér ofbauð að hugsa um það, að allr þessi stórkostlegi útbúnaðr væri þó einungis til þess að drepa menn með. Skyldi þjóðir heimsins aldrei verða svo siðaðar, að þær hætti að berjast? Hve nær skyldi spádómrinn rætast og sú stund koma, að þjóðirnar smíði plógjárn úr sverðum sínum og kornsigðir úr spjótum sínum og ekki læri hernaðaríþrótt framar (Esaj. 2, 4)?

Eg ferðaðist líka frá Seattle alla leið suðr til Portland í Oregon (um 200 mílur). Fór eg þangað einkum til að hitta vin minn og skólabróður séra J. A. Leas. Hann er prestr ensk-lútersks safnaðar í Portland og forseti hinnar nýmynduðu *Pacific Synod*, er saman stendr af söfnuðum ensk-lúterskra manna í Washington, Oregon og Utah. Mér var hin mesta ánœgja af komunni til Portland. Bœrinn er yndislega fagr, stendr í Columbia-dalnum á báðum bökkum árinnar. Þar þótti mér fallegast af þeim stöðum, sem eg kom á vestr frá. Mest var mér þó ánœgjan af að vera viðstaddr, þegar kirkjufélagið áðr nefnda (Pacific Synod) var stofnað. Þingið var

haldið í kirkju Leas' prests, enda hafði hann verið frumkvöðull þess fyrirtœkis. Sjálfr flutti hann prédikan í þingbyrjan, og var hún yndislega fögr. Lagði hann út af því, er Móses stóð á dauðadœgri uppi á Nebó og horfði yfir ána til fyrirheitna landsins. Hann minntist þess, hversu oft það væri, að bardagahetjur lífsins að eins fengi í anda að sjá ávexti vinnu sinnar. Svo dró rœðumaðr upp mynd af hinu fagra fyrirheitna landi þar í hinum nýju vestrríkjum og lagði niðr fyrir prestunum, starfsbrœðrum sínum, að þeir, sem fyrstu brautryðjendr kirkjunnar, mætti eigi búast við meiri launum fyrir stríðið og starfið en að sjá í anda hina björtu framtíð kristninnar í landinu. Sjálfsafneitanin ein ætti að einkenna trúboðana. þeir ætti að ryðja veginn og vera sáttir við þá hugsun, að þeim yrði sjálfum gleymt. —Eg kynntist þarna mörgum prestum, sem eg áðr ekki þekkti nema af orðspori. Allir tilheyrðu þeir *General Council* og allt fór fram eftir reglum þess félags, og þess vegna kunni eg svo undr vel við mig í þessum hóp,—eg, sem sjálfr er algjörlega af General Councils bergi brotinn og barn þess í anda. Hjartanleg gleði var mér það að ganga með þessum brœðrum mínum til altaris og minnast þar við frelsara og drottin vor allra, sem á hann vonum, hverrar þjóðar sem vér erum og hvar sem vér erum af honum settir í fylkingar hersveita hans. —Guð blessi þetta litla kirkjufélag trúbrœðra vorra vestan við fjöllin!

Enn þá hefi eg ekkert minnzt á landa mína vestr á ströndinni, og er mér það þó bæði ljúft og skylt. Lengst af tímanum, sem eg var vestra, dvaldi eg hjá löndum mínum, og voru þeir mér allir sem brœðr og báru mig á höndum sér. Aðallega dvaldi eg í Ballard, sem er dálítið þorp rétt við borgina Seattle; gengr þar sporvagn á milli hvern hálfan tíma. Margir Íslendingar hafa setzt að í þessum bœ og þeir Íslendingar, sem búa inni í Seattle, taka þátt í samkomum og félagskap landa sinna í Ballard, og má það heita einn hópr. Í Ballard hefir myndazt dálítið félagslíf meðal landa. Tvö félög voru þar starfandi, þegar eg var þar. Heitir annað félagið „Vestri", hafði í fyrstu verið stofnað aðallega af unga fólkinu í þeim tilgangi að temja sér félagslega starfsemi, en síðan

hafa hinir eldri líka gengið í félagið og taka með unga fólkinu jöfnum höndum þátt í starfinu. Félagið hefir gengizt fyrir bókakaupum og heldr fundi á hálfs mánaðar fresti til að ræða mál sín og skemmta sér. Var vel látið af félagi þessu. Mig langaði mjög mikið að koma á fund þess, en því miðr gat eg ekki komið því við.

Hitt félagið var safnaðarfélag. Það var myndað síðstliðið vor fyrir tilhlutan séra Runólfs Runólfssonar, er áðr var prestr Íslendinga í Spanish Fork í Utah. Ekki voru þó fleiri en 24 sálir í söfnuðinum. Söfnuðrinn hafði í vor samið við séra Runólf um prestsþjónustu, og flutti hann nú guðsþjónustur hvern sunnudag í leiguhúsi dálitlu, miðr notalegu til slíkra funda. Sunnudagsskóli var líka haldinn hvern helgan dag. Séra Runólfr er maðr sérlega heilsutæpur og blásnauðr. Hefir hann því ekkert getað ferðazt um byggðir Íslendinga þar víðsvegar um ströndina, og fáir hafa orðið til að ganga í söfnuð hans í Ballard. Vantar hann þó víst ekki góðan vilja.

Til Ballard kom eg seint í viku og prédikaði eg fyrir Íslendingum næsta sunnudagskvöld. Var samkoman höfð í samkomusal einum stórum og laglegum, og furðaði eg mig á, hversu margt fólk kom þá saman. Var sumt af því fólki frá Seattle. Að aflokinni guðsþjónustu heilsaði eg upp á fólkið í nafni kirkjufélags vors og talaði eftir mætti fyrir því máli, að lífsnauðsyn væri það oss hinum fáu og dreifðu Íslendingum að bindast einum allsherjar félagsböndum innan vébanda kirkju feðra vorra. Tvívegis flutti eg aftr guðsþjónustur í Ballard, annað sinn í norskri kirkju, er oss var léð af góðvild þess safnaðar, er hana átti, en í hitt skifti í leigðum samkomusal. Eg skrapp norður til New Whatcom og Marietta. Hinn síðarnefndi staðr er ofr lítið þorp, og var mér sagt, að þar byggi einar ellefu íslenzkar fjölskyldur. Eg boðaði þar til guðsþjónustu kvöld þess dags, er eg kom þangað, en sökum óveðrs gat ekkert orðið af þeirri samkomu. Og næsta dag varð eg að halda þaðan burt til að ná í annan stað, er eg var búinn að ákveða samkomu á. Því miðr gat eg allt of lítið farið um byggðir landa minna. Það er svo langt á milli þeirra og seinfarið, og eg hugsaði mér líka, að eg gæti helzt einhver

góð áhrif haft með því að vera sem mest af tímanum í Ballard, þar sem kominn var þegar dálítil hreyfing í kirkjulega átt. Enda verðr hin kirkjulega hreyfing á sínum tíma að berast frá Ballard til .annarra staða þar vestra. Það er orðinn mesti fjöldi af Íslendingum vestr á ströndinni, og eykst stöðugt flutningr fólks þangað. Í nálægri framtíð gæti þar myndazt gott og sjálfstœtt prestakall. En það hlyti að verða nokkuð örðugt að þjóna því, og til þess þyrfti hraustan og ungan mann. Fyrst framan af hlyti að styrkja þann, sem það verk fœrðist í fang að mynda söfnuði og koma á föstu kirkjulífi. Kirkjufélag vort verðr að taka það verk að sér. Og eg er viss um, að fyrir „ströndinni" getr legið björt framtíð einnig kirkjulega, ef rétt er að farið, ef þeir, sem komnir eru vestr úr ýmsum söfnuðum kirkjufélagsins og kirkjufélagið sjálft vinna saman. Kirkjufélagið verðr að hjálpa þessu máli við eins fljótt og því er unnt og kirkjufélagsmennirnir vestr frá að bíða eftir þeirri hjálp.

Kvöldið áðr en eg lagði á stað frá Ballard var haldin almenn samkoma í velvildarskyni við mig. Talaði eg þá enn fyrir löndum mínum, og að skilnaði bað eg þá eins heitt og eg gat að halda vel kristindóm sinn og greiða götu kirkjufélagsins, þegar því yxi svo fiskr um hrygg, að það gæti meira sinnt verkinu þar vestr frá. Kærleika fólksins þar til mín gleymi eg aldrei. Margt það góða fólk hafði eg aldrei fyrr séð en í þessari ferð; en marga átti eg þar líka gamla vini og kær sóknarbörn frá fyrri tíð. Eg gleymi aldrei, hvernig fermingarbörnin mín þar vestr frá slógu hring um mig sem föður sinn. Ó, hvað mér þótti vænt um að þau mundu enn fermingarheitið sitt! Ávallt mun eg minnast landa minna vestr við Kyrrahafið með þakklæti, og ávallt biðja góðan guð að blessa þá.



# Hvað vitum vér um faraó þann, er gjörði Ísraelsmenn að þrælum?

Eftir A. H. SAYCE, doktor og prófessor.

Þýtt úr *Sunday School Times* af ritst. ,,Sam.''

---

,,Þá hófst til ríkis í Egyptalandi nýr konungr, sem ekki þekkti Jósef'' (2. Mós. 1, 8). Með þessum fáu, en efnisríku orðum er faraó sá leiddr fram á sjónarsvið sögunnar, sem að tilhlutan guðlegrar forsjónar varð orsök þess, að Ísraelsfólk varð að þjóð, til þess hœf að veita lögmáli drottins viðtöku og byrja á því að leggja undir sig fyrirheitna landið. Þó var það ekki á hans tíð, að flótti Ísraelsmanna út úr ánauðinni skelfilegu í Egyptalandi kom fyrir. Faraó sá, er mest kúgaði Ísraelsmenn, var annar en sá, er uppi var þá er þeir slitu sig lausa. Hinn fyrrnefndi konungr þeirra dó á þeim tíma, er Móses dvaldi í Midíanslandi. Og það var ekki fyrr en eftir dauða hans, að löggjafi Hebrea hvarf aftr til landsins, þar sem hann var fœddr, og tók að búa sig undir það að koma fólki sínu burt þaðan áleiðis til hinna nýju heimkynna í Kanaanslandi. Það er beinlínis tekið fram í 2. bók Mósesar (2, 23), að konungr sá, sem steypt hafði Ísraelsmönnum í ánauðina, hafi dáið í þeirri trú, að þeir væri enn þrælar hans, sem hann gæti farið með eins og hann vildi.

Um það hefir lengi verið deilt með mestu ákefð, hver af konungum Egyptalands það hafi verið, sem beitti kúganinni miklu við Ísraelsmenn. Bergmál þeirra deiluradda má víst enn heyra, en í augum þeirra manna, sem trúa á áreiðanlegleik þess, sem frá er sagt í biblíunni, er ágreiningsmál þetta algjörlega útkljáð. Pítóm — vistaborgin önnur, sem faraó lét Ísraelsmenn í ánauðinni reisa samkvæmt því, sem frá er skýrt í 2. Mós. 1, 11 — hefir fundizt, og hvað sá faraó hét vita menn einnig. Rannsóknirnar, sem leitt hafa til þess, að Pítóm hefir fundizt, hafa sannað það, að faraó sá, sem lét reisa þá borg, er sami Egyptalandskonungrinn sem sá, er um er getið í fyrstu kapítulum 2. Mós. bókar, hann, sem þessi orð eru höfð eftir: ,,Látum oss fara kœnlega að við þá (Ísraelsmenn), svo þeir ekki fjölgi, því vera má, ef ófriðr kemr, að

þessi lýðr gangi í lið með óvinum vorum, berjist á móti oss og fari svo af landi burt“ (2. Mós. 1, 10).

Dr. Naville er sá, sem fundr Pítóms-borgar er að þakka. Það var það, sem fyrst af öllu hafðist upp úr „félaginu til rannsókna í Egyptalandi“, er Naville vann fyrir. Aðalmarkmið félagsins var frá upphafi það að varpa ljósi yfir söguna um burtför Ísraels úr Egyptalandi; og í mesta máta ánœgjulegt var það, að fyrsti ávöxtrinn af starfi félagsins skyldi verða vissan um það, hver sá faraó var, sem kúganinni beitti við lýð drottins. Þaðan í frá hefir oss verið það kunnugt, að Ramses annar af nítjándu egypzku konungaættinni var sá faraó. Og þar með höfðu menn náð haldi á föstu tímamarki í fornsögu Egyptalands til þess að miða við atburðina, sem frá er sagt í Exódus — bókinni um burtförina.

Ramses annar var sá af forn-egypzku konungunum, sem einna mest allra ber á. Hann sat að völdum í sextíu og sjö ár. Á stjórnartíð hans stóð það ríki í sínum mesta blóma, og aldrei hafði Egyptaland eins mikil áhrif á menning fornaldarþjóðanna eins og einmitt þá. Með dauða hans tók því ríki að hnigna. Það missti landeignir sínar í Asíu, og inn í Níldalinn streymdu skarar hálfvilltra þjóðflokka frá Lybíu og Grikklandseyjum og óðu þar uppi. Það var ekki að eins saga Ísraelsmanna, sem snerist við með burtför þeirra úr Egyptalandi, heldr einnig saga landsins, sem þeir höfðu búið í eins og ánauðugir þrælar.

Fleygletrs-spjöldin, sem grafin hafa verið úr jörð í Tel el-Amarna, gjöra grein fyrir því, hvernig á því stendr, að svo er að orði kveðið um „hinn nýja konung“—Ramses annan—, að hann „ekki þekkti Jósef“. Á tímabili því, er átjánda konungaættin var við völd í Egyptalandi, hafði ríkið egypzka breiðzt út austr í heim allt til Evfrat-fljóts, og þá hafði Kanaan orðið egypzkt skattland. En það tímabil endaði með því, að innlenda menntanin í Egyptalandi varð að þoka fyrir menntan austrlenzku þjóðanna. Egypzku konungarnir höfðu kvænzt austrlenzkum konungadœtrum. Hirðin egypzka fylltist af tignum mönnum austan úr löndum. Og loks réðst faraó sá, er nefndr var „villutrúar-konungrinn“, í það, að

uppræta hin gömlu trúarbrögð lands þess, sem hann var settr yfir, og setja austrlenzkan átrúnað í staðinn. Sú tilraun hafði miklar og víðtækar afleiðingar. Það hófst innlendr ófriðr, sem náði bæði til stjórnmála og trúmála. Egyptaland missti um hríð landeignir sínar í Asíu. Og konungaættinni frægustu, sem nokkurn tíma skipaði hásæti faraós, var hrundið frá völdum. Hin austrlenzka stjórnmálastefna og trúmálastefna konungs þessa hafði hneykslað Egypta; þjóðernistilfinning þeirra þoldi ekki aðfarir þessar og straumrinn í sögu landsins sneri algjörlega við. Semítarnir að austan voru gjörðir landrækir eða líflátnir. Og ný konungaætt, sú nítjánda, komst til valda í Níldalnum. Þjóðernisflokkrinn var þar með orðinn ofan á. Að eins í Gósen, á útjaðri Deltahéraðsins—hinna egypzku landeyja—, var hjarðmannalýðr Ísraels enn kyrr. En þeir voru sviftir frelsi sínu, kúgaðir og gjörðir að þrælum stjórnarinnar. Í stað hjarðmennsku-starfs þeirra var látin koma púlsmennska við tígulsteinagjörð. Allt var gjört, sem hugsazt gat, til að varna því, að þeir fjölguðu og sameinuðust hinum austrlenzku óvinum Egyptalands. Brátt dó hinn herskái andi feðranna út hjá þrælum þessum, sem svona voru þjakaðir og niðr troðnir, og þar með þá einnig máttr þeirra til að berjast fyrir frelsi sínu.

Ramses fyrsti, sá er fyrstr kom til valda af nítjándu konungaættinni, virðist ekki hafa haft ríkisstjórn á hendi lengr en tvö eða þrjú ár. Eftirmaðr hans næsti var Setí, hinn fyrsti með því nafni, sem vann aftr undir egypzka ríkið lönd þau í Asíu, er það hafði misst, og endrreisti goðahofin í Egyptalandi, sem lagzt höfðu í rústir. Samfara því, að Egypta-veldi náði sér aftr niðri erlendis, lifnaði við áhugi á íþróttum heima fyrir. Lágmyndirnar í Abydos frá stjórnartíð Setí konungs, sem málaðar hafa verið með svo frábærri list, eru eitt hið allra fegrsta snilldarverk þeirrar tegundar, sem Forn-Egyptar hafa eftir sig látið. Og hinn skrautbúni legstaðr Þebu-konungs er sú af hinum konunglegu grafhvelfingum í því landi, sem bæði er stœrst og með mestri listfengi gjörð. Kanaansland laut faraó enn að nýju, og Egyptar fóru þá herferðir eins langt norðr og til Litlu Asíu og austr á bóginn til Háran,

þar sem letr, mótað í stein, eftir Setí konung hefir nýlega fundizt.

Setí sat að völdum tuttugu ár, eða rúmlega það. En eftir hann tók Ramses annar, sonr hans, konungdóm í Egyptalandi. Auknefni hans var „óskabarn Amons", þebuborgar-guðsins. Svo var hann að minnsta kosti titlaður af hinum egypzku þegnum sínum. En útlendingar, sem áttu ervitt með að bera fram egypzku nöfnin, nefndu hann með embættisnafni hans: *peraa* eða *faraó*, sem merkir: „stóra húsið". það er samskonar titill og sá, er Tyrkja-soldán ber: „garðshliðið háa". Og eins og títt er að titla þann þjóðhöfðingja svo í stað þess að nefna hann persónunafni hans, svo nefndu Ísraelsmenn konung Egyptalands heldr faraó en *Ramessú mí-Amon*.

Ramses annar var enn á ungum aldri, þá er hann kom til ríkis. Með hinni „tvöföldu kórónu" Egyptalands tók hann að erfðum stríð það, sem faðir hans hafði átt í við Hetíta í Sýrlandi. þjóðflokkar Hetíta höfðu notað sér veikleik Egypta-ríkis, sem kom fram á vandræðaárunum seinast á því tímabili, er átjánda konungaættin var við völd. þeir höfðu streymt fram gegn um skörð Tárus-fjalla og hrifsað til sín hin frjósömu lönd þar fyrir sunnan. Hin gamla borg Kades við Orontes-fljót í Sýrlandi, nálægt Hórus-vatni, varð höfuðstaðr þeirra í suðri, og svo ruddust herforingjar Hetíta fram allt til suðr-takmarka Palestínu. Að undanteknum fáeinum nýlendum hingað og þangað á stangli tókst þeim þó aldrei að ná eignarhaldi á Kanaan. þar sem síðar urðu landamæri Ísraelsríkis í norðri, þangað, en ekki lengra, náði hin eiginlega landeign Hetíta. Viðreisn Egyptalands með nítjándu konungaættinni varð til þess, að Hetítar fengu ekki útbreitt ríki sitt lengra suðr. Kanaansland varð fyrst vígvöllr sá, er barizt var á af „hinum mikla konungi Hetíta" og faraó Egyptalands, og síðan egypzkt skattland. Ófriðrinn færðist inn í landeign Hetíta, og Kades-borg var umsetin af Nílár-hernum. það var í einum slíkum leiðangri, að Ramses frelsaðist úr opnum dauða fyrir tilhlutan guðsins Amons — eftir því, sem konungr sjálfr taldi víst. Meðan bardaginn stóð sem hæst hafði

hann í ofrhug œtt inn í óvinaherinn, orðið svo allt í einu viðskila við fylgdarlið sitt, og staðið einn uppi með þjóni þeim, er ók vagni hans, umkringdr af fjandmönnum sínum. Í þessum nauðum sneri hann sér biðjandi til þebuborgar-guðsins og fékk bœneyrslu. Óvinirnir flúðu undan árás hans og hann komst aftr heill á hófi til sinna manna. Hirðskáld hans Pentár orkti söguljóð um atburð þennan, og það kvæði, sem heldr á lofti frægðarverkum faraós, var grafið á veggi mustersins í Karnak. (Meira.)

---

Frá missíónarstarfi séra Jóns J. Clemens er þetta að segja í viðbót við það, sem frá var skýrt í Desember-blaði ,,Sam.":

Hann kom frá Vatnsdalsbyggð við Qu'Appelle-á til Tindastóls í Alberta 15. Nóv. og dvaldi svo tæpan mánaðartíma í Íslendingabyggðinni þar. Prédikaði til skiftis í skólahúsunum að Burnt Lake, Pine Hill, Tindastóli og Hólum, 17. (sunn.), 21., 24. (sunn.), 28. Nóv. og 1. (sunn.), 5. og 8. (sunn.) Des. Safnaðarfundr var haldinn í skólahúsinu að Pine Hill 5. Des., og voru þar rœdd ýms kirkjuleg mál, einkum sunnudagsskólamálið og prestsþjónustumál safnaðarins. Söfnuðinum er annt um að fá til sín þjónanda prest framvegis, og átti frekar að rœða það mál á safnaðarfundi í Janúar. Séra Jón Clemens skírði 4 börn þar í byggðinni og framkvæmdi eina hjónavígslu. Meðan hann dvaldi þar gekk um 60 manns í Alberta-söfnuð, og er tala safnaðarlimanna nú rúmlega 200. En alls eru byggðarmenn um 300.

Á austrleiðinni kom séra Jón við í Calgary 9. Des. og prédikaði þar á heimili Á. Pálssonar. Þar búa að eins fáar íslenzkar fjölskyldur. Til Brandon kom hann hinn 11., skírði þar eitt barn og vígði ein hjón. Sama dag fór hann til Pipestone-byggðar og prédikaði í samkomuhúsi Íslendinga þar um kvöldið. Að morgni næsta dags fór hann þaðan aftr áleiðis til Roseau-byggðar í Minnesota. Kom þangað laugardaginn 14. Des. og prédikaði í skólahúsinu í austrparti byggðarinnar sunnudaginn hinn 15. Vikutíma dvaldi hann þar og prédikaði þrem sinnum. Á safnaðarfundi var hann, sem haldinn var í húsi hr. Jacksons 19. Des. Hann gekkst fyrir myndan nýs safnaðar meðal fólksins, sem býr fyrir norðan landamerkjalínu Bandaríkjanna og Canada (í Manitoba). Var það hinn 20. á fundi eftir guðsþjónustu í húsi M. Þórarinsssonar, að hinn nýi söfnuðr var myndaðr. Hann heitir *Fagradalssöfn-*

*uðr*, og voru í hann innritaðar 78 sálir. Svo er við búizt, að sótt verði af söfnuði þessum um inngöngu í kirkjufélagið fyrir næsta kirkjuþing.

Árangrinn af missíónarferðum séra Jóns J. Clemens (frá því seint í Október þar til seint í Desember) er mjög góðr, og að sjálfsögðu er kirkjufélagið honum hjartanlega þakklátt fyrir dugnað hans og framkvæmdir á þessum missíónar-ferðum.

---

Árslokahátíð sunnudagsskóla Fyrsta lút. safn. í W.peg, var haldin að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs (29. Des.) með mjög líku fyrirkomulagi og áðr hefir tíðkazt. Kirkjan, hátíðlega upplýst og í öllu jólaskrauti sínu, var troðfull af fólki. Á eftir vanalegum *introitus* fór þetta fram: 1. ,,Sunnudagsskólinn" (,,Oss þykir vænt um þennan stað"), kvæði orkt fyrir tœkifœrið af Hannesi S. Blöndal, sungið af öllum skólanum. — 2. *Recitation*: ,,Sólargeislar" (lesmálskafli úr ,,Kennaranum") — drengr. — 3. Söngr, *terzet*: ,,Stormr lægist stríðr"—eftir Bjarna Jónsson — 2 stúlkur, 1 drengr.—4. *Fíólín-sóló*: ,,Alice, where art thou?"—drengr. —5. *Recitation:* Smásaga (,,Lát ljós þitt skína")—lítil stúlka. —6. Ávarp frá forstöðumanni sunnudagsskólans, presti safnaðarins.—7. *Dúet* (,,Little ones like me")—2 stúlkur.—8. Söngr (,,Bright angel hosts")—eldri börn. — 9. *Cornet-sóló* (,,Nazaret")—drengr.—10. *Recitation* (,,Ó, hjartkæri faðir, vor hjörtu svo klökk"— nr. 99 í Barnasálmabókinni)—drengr. —11. Söngr (,,Hve blessuð aftans er blíða")—nokkrar stúlkur.—12. Lofsöngr (,,Ó, komið, þér trúuðu")—allir.

Í ávarpi sínu kom forstöðumaðr meðal annars með tvær smásögur. Á missíónar-skipi því, er nefndist ,,Morgunstjarnan", vildi það óhapp til á einni ferð þess í ástrálska eyjahafinu um miðja 19. öldina, að barn eitt féll útbyrðis úr fjölmennum barnahópi, er staddr var á þilfarinu. Enginn vissi, hvert barn þetta var. Skipstjóri heyrði inn í káetuna, að slys hefði komið fyrir; og án þess að vita neitt frekar eða gjöra nokkra fyrirspurn brá hann tafarlaust við og fleygði sér í sjóinn til þess að bjarga barninu, ef unnt væri. Sú tilraun heppnaðist, þótt að eins væri með mestu naumindum. þegar barnið opnaði augun, milli heims og helju, í því skipstjórinn var að bjarga því á sundinu, þá kallaði það fagnanda til hans: ,,Ó, pabbi minn!" Hann hafði þar án þess að vita það frelsað líf síns eigin barns. þvílík gleði fyrir hann! — En samskonar gleði, sagði rœðumaðr, eiga þeir allir og þær allar kost á að eignast, sem í sannkristilegum anda vinna að verki sunnudags-

skólans. — Hin smásagan var um konu eina, sem stödd var í opnum dauða með börnum sínum tveim og mörgum öðrum úti á einu af hinum miklu stöðuvötnum hér í Norðr-Ameríku, þá er skip það, er þau höfðu tekið sér far með, var að brenna þar upp. Henni hafði einhvern veginn tekizt að bjarga börnunum og sjálfri sér út á rekald nokkurt; það var legubekkr, sem fleygt hafði verið útbyrðis úr skipinu og flaut þar í vatnsbrúninni. En allt í einu sá hún mann, sem kom syndandi frá skipinu og stefndi á sama blettinn. Hún var þess fullviss, að legubekkrinn sykki í kaf, ef fleiri bættist á hann. Og í dauðans ofboði kallaði hún til hans: ,,Ó, taktu hann ekki frá börnunum mínum!" þá nam hann staðar á sundinu. Hún sá á andliti hans, að hann átti í baráttu við sjálfan sig. En áðr en drykklöng stund var liðin vann hann sigr í þeirri baráttu. Hann sleppti sundtökum og sökk sjálfviljugr í djúpið, —fórnaði sjálfum sér fyrir börnin út af móðurástinni biðjandi. —Slík fórn og slík bæn heyrir því verki til, sem verið er að vinna í sunnudagsskólanum—sagði ræðumaðr Og þetta er markmið allrar sannkristilegrar barna-uppfræðingar.

---

Íslenzkir nemendr á Wesley College hér í Winnipeg voru í byrjan Desembermánaðar 15 að tölu. En eftir nýár voru þeir orðnir 25, þar af 6 stúlkur. Námsgreinarnar íslenzku, sem byrjað hefir verið á, eru þessar: réttritan, skýring íslenzkra ljóða, Íslandslýsing, saga Íslands, goðasögur. 5 kennslustundir alls á viku, ein fyrir hverja af námsgreinum þessum. Lang-flestir Íslendingarnir, sem ganga á Wesley College, eru í undirbúningsdeildinni.—Séra Friðrik J. Bergmann kennir einnig latínu þar í skólanum.—þetta kennslumáls-fyrirtæki kirkjufélagsins virðist ætla að heppnast ágætlega.

---

Hr. Ólafr S. þorgeirsson, 644 William Ave., Winnipeg, er féhirðir ,,Sam.".

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." á hverjum mánuði. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Fridrik J. Bergmann, Ólafr S. þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr þorlaksson[1]

Prentsmiðja Lögbergs, — Winnipeg.